sem hafa sömu Tru og vier. Christi leg Kyrkia verdur i Skyrnesie Mooder hvørs eins sem ad skyrdur er/og þa eiga þeir ann Efa ad vera Brædur Jnbyrdes/ sem ad eru Sam-Mædder / og erum vier i sama Maata þessum Brædrum um̃ mikla Elsku skyllduger. Vorrar Truar Band ætte hvad mest ad tengsla vor Hiørtu saman / Þad er þad Broodderne sem St: Petur rædur oss til ad elska 1.Pet.2.v.17. Og erum vier med vissu moote skyllduger til ad giøra þeim til gooda/ hvad vier kunnum / Giøred øllum Gott/ einna mest þeim sem eru af Truarennar Heimkynne/ seiger Postulenn Gal. 6.v.10. Vier ættum ad hafa hina fyrstu Medaumkun med þeim fram̃ yfer alla adra i þeirra vidliggiande Naudsynium/ Christur seiger oss / Ad hvør sem giefur einum af þeim hinu Minstu einn Bikar af kølldu Vatne ad drecka i Læresveins Nafne / han̄ skule ecke Olaunadur vera Matth.10.v.42. Hvar fyrer vier eigum ad vera visser um̃ / ad þesse

siere

sierdeilis Kiærleike / sem ad Christner hafa til ad ara Jafn-Christiena / er vel þockadur i hans Augum.

## Vor Skyllda til ad hallda Eindrægne med þeim.

4. Þar er margvijsleg Skyllda / sem vtheimtest af oss / ad vier skulum audsyna þessum vorum Brædrum / Enn sierdeilis er þad / ad vier hølldum Eindrægne med þeim / og þad fyrst i Lærdoomenum. Vier skulum Jafnadarlega Samlynder vera / i eine sanre Tru og Jatningu / og trua øllu þvi / af hvøriu vier þeckter verdum / ad vera Christi Læresveinar og Epterfylgiarar / þad er su Tru / er St. Judas talar um / sem Einusinne er i Hendur feingen þeim Heilogu / Jud. v. 3. Og nær vier hølldum fast vid hana / þa verdum vier jafnan samteingder i þessum Andlega Broodurskap / vegna þeirrar Vidurkienningar / er vier skyldugleg a eigum ad giøra / hvada Stryd og Offsookner sem oss kunna ad Hendum ad bera / epter St. Pals Aminningu / Hebr.

10. v. 22. Lætum oss hallda fast vid Truarennar Vidurkienningu/ og ecke vera Ostadugа. J Annan Mata skulum vier og so opt sem þar til fellur Heilug leike/ verda Hluttakande med þeim hinar H. Þionustu. Vier skulum jafnan sækia Heilagra Selskap/ hvert ad er so sem nockurskonar Pantur vorrar Vidurkienningar/ þar fyrer/ hvor sem ad med Vilia giörer sig þeim fraskilia / Hann giefur oss Orsök til ad meina / ad hann i sama Mata munde verda buenn til ad afneita hinu ödru. Vier finnum ad hiner fyrstu Christner Menn tooku vel Vara a slijku/ Act. 2. v. 42. Þeir voru stoduger i Postulanna Lærdoome/ og i Samneitenu og i Braudsens Brotningu/og i Bænahalldenu / þeir hielldu afram og voru stadfaster / þeir lietu sig ei hræda med Aræsum edur Offooknum/ Jafn vel þott þad være i þa Daga / þegar þeir Reinder urdu med allra hardustu Þijslum/ hvad ed kiennir oss/ad þar filger alldrei þvilijkur Hæske þessare Skyll

du/

du / ad hann kunne ad vera oss til Af-
sökunar.

## Ad umbera þeirra Breiskleika

5. J Annan Mata eigum vier ad umbera Breiskleika vorra Christenna Brædra epter Pals Radum / Rom. 15. v. 1. Enn þar sem kunnum ad giora þad / erum skyllduger til ad lijda Breiskleika hinna Veiku / þar sem eirn truer öllum Truarennar Articulum / sem eru til Sáluhialparennar Nausynleger / og kann þo vera ad hann i Einhvorju Villt fare / þa meigum vier ecke þar fyrer fordast hanns Samneyte edur forsmá hann / þetta kienner St. Páll oss / þa hann veike Brædur giorde sier Samvitsku Matarens vegna / Rom. 14. Hvar med hann bydur hinum Christnu sem hraustare eru / þad er befur uppl..., ad þeir mætte vel seigia honum Veiku sina / enn ei ad skiöut skyllde þeir taka vid honum / og ecke forsmá hann / so sem hann og ... hina Sidvöndu bydur hinum Veika / ad ei skule hann dæma þann sem sterkare er. Menn

eiga a hvoruga Sidduna Sokum, eins litels Agreinings ad lata hid allra minsta af þeim Broodurlegum Kiarleika / sem a ad vera vor a mille Innbyrdes.

Vier eigū ad leggia allañ Hug a ad færa þa aptur a rietta Leid.

6. J þridia Mala / nær vor Brooder hefur Syndgad / þa eigum vier ad sia til / ad vier fæaum hañ reist a Fæt ur aptur / þad er ad koma hønum til Apturhvarfs / þegar hañ kañ ad hafa falled i eina edur adra Synd / þetta bÿdur St. Pall þeim i Galatia / Cap. 6. Ad þeir skule Leidrietta þañ / sem kañ ad vera yferstiggeñ af nockre Synd / og ad giæta ad sialfum sier / ad þeir ecke eirneñ verde freistader. Vier eigum ecke ad alÿta hañ so sem þañ / ed Allaseidu sie Fordæmdur / nie yfergiefa hañ / so sem þañ / ed eingeñ Von sie framarum / ei helldur eigum vier ad stæra oss upp yfer hønum / vegna vors eigeñ Saklleises / eins og hiñ Dramblate Phariseus yfer hinum auma Tollheimtu

Mañel

Matth. / Luc. 18. v. 11. Ett vier eigum med Hoogværd ad stunda epter ad fa hañ Leidriettañ / og lata oss i Hug koma / ad vor eigeñ Breiskleike er so stoor / ad vier erum ecke visser uñ / ad vier ei kuñum ad falla i somu Synd.

Vær eigum ad fagna nær þeim
Vel geingur / eñ harma nær þeim
Illa vegnar.

7. I Fioorda Mäta / eigum vier ad hafa Medlydan med þessum vorum Brædrum / þad er / ad vier latum oss til Hiarta ganga nær þa hender Eitt-hvad / og hvørt helldur þad snerter allañ Sofnudeñ / edur og einhvørn Sier i Lage / Fyrst Alla til samans / og med soddañ Hætte eru þeir eirn Sofnudur / og er þad añadhvørt hin Almeñelega Christelega Kyrkia / sem eru aller Riett truader i Heimenum / edur og Einhvør Sier i Lage Sofnudur / sem eru aller Truader i einhvøriu einu Lande / og hvad sem nu helldur uppæfellur hiñe Almeñelegu Christelegre Kyrkiu / edur Eitt-

Einhvøriumi Sierdeilis Søfnude / og einkum hvørs Limer vier siaalfer erum/ Þad eigum vier Jnnelega ad lata oss til Hiarta gänga / Fagna ef Þeim geingur Vel/ en Harma og Graata nær Þeir lijda nockra Eymd edur Mootgang / og Alvarlega og Vndlega bidia med David Psalm. 51. v. 20. Gior vel vid Zion / epter Þinne Velþocknan / og uppbygg Jerusalems Muura / og Sierdeilis nær vier siaaum/ ad hun lijdur Neid edur Ofsookner. Sa sem ad ecke kiemst vid / hvort helldur ad Christelegre Kyrkiu geingur Vel edur Jlla / hann gietur ei halldest vered fyrer eirn lifande Lim i henne / Þvi so sem Þad / ad eirn Limurenn lijdur med ødrum/ a hinum Natturlega Lijkama/ so skiedur Þad og hier / og Þad er Þad sem Psalma Skaalldeid teiknad hefur/ Ad Guds Þienarar Þeinkia um Zions Steina / og aumkast yfer ad sia Þ hun liggur i Duptenu/ og i Saurleika Þa eru aller hans Þienarar eins Lynder/ Þeir giefa ei horft a Christelegrar Kyrk-

iu

lu Mein edur Sidelegginga / utaň með stærstu Hiarta Sorg og Angre. J Afsaň Mata / eigum vier að fagna edur syrgia yfer þvi / sem aňaðhvørt Gledelegt edur Hryggelegt tilfellur sierhvørium einum af vorum Brædrum. Vier ættū að elska so miøg hvørn eirn Christ eň Maň/ að vier hefðum so sem nockurs konar Hluldeild/ bæde i þra Sorg z Gle de. Paňiň ámister Postulinn oss Rom: 12. v. 14. Fagneð með Fagnendum/ og græt ed með Grætendum/. Og aptur 1. Cor: 12. Með eirne Samlykingu tekeňe af Natturlegum Lykama / stendur hań hart uppa þessa Skyllðu/ Ef ecke liða aller Limerner þegar eirn lyður/ Ellegar ef eirn Limureň heiðraður verdur/ þa rige aller Limerner að samfagna hønum/þar fyrer eru þesser Andlegir Bræd ur skylduger/uň allar þessar Kiærleik= sins Verkaner og Auktellingar. Og þesse Kiærleike er það sem Christur hef ur sett Merke uppa/ Talande við sijna Lærisveina / Joh. 13. v. 35. Þar af

skylu

skulu aller þeckiā/ þad þier sieud mijrer Læresveinar / ad þier elskest Jnbyrdes / Þar fyrer / ef vier æklunst til ad vera Christi Læresveinar / þa meigum vier ecke skora oss undan þessum Brodurlega Kiærleika.

## Kvinañ skal vera Mañenum hlÿdeñ.

8. Niner Þridiu/ sem eru hvør ødrum Bandabundner/ er Madur z Kvinna. Þetta er eñ nu Nakomnara eñ hvert hina fyrre/ so sem sia ma Eph. 5. v. 31. Madureñ skal forlata Fødur og Moodur/ og Samteingiast sine Egta-Kvinu/og þau Tvø skulu eitt Holld vera. Þad er margvijsleg Skyllda / sem eitt er ødru um skylldugt/ og hvad Kvinnune vidvijkur/ þa a hun fyrst ad audsyna Mañenum Hlydne/ og þ. epter Postulans Aminingu/ Col. 3. v. 18. Þier Kvinnur/ Vered ydar Bændum Vndergiefnar so sem þad byrtar i DRottne. Þetta er i allañ Mata Løglegt og Riettvijst / Þvi añars ma hier um halldast/eins og i ødrum

i øllum ødrum Tilfellum / hvar vorer
Yfer, Menn eiga ad ráda fyrer oss / ad
Gude byrjar ad hlÿda framar enn Møn-
um/ og mæ Kvinnan epter Husboondans
Skipan ecke neitt þad giøra sem Gud
bannad hefur/enn i øllu þvi er ei mootstrÿd
er Gude / þa æ hun ad hegda sier epter
þessu Bodorde / hvørt ed vill fordæma
margar Brædlyndar og Illskiadar Kon
ur/sem ei vilia þad giøra sem Menierner
biooda þeim/ alleina þess vegna/ad þær
eyra þvi illa ad þær skule vera Mannen-
um undergiefnar/ hvad sialfur Gud þo
utheimter af þeim/ enn þar mætte spyr
iast ad/ef Husboondenn skipar Eitthvad
þad sem (þo jafnvel þad sie ecke Oløg-
legt) er Osiickanlegt / og Ovturlegt /
skal Kvinnann hlÿda nær hann þvilikt skip
ar? Þar til svara eg / ad þad er eingenn
Ohlÿdne af henne/enn þad er hennar Skyll
da/ ad hun med Kyrd og Hoogværd syne
honum ad þetta ecke sæme / og ad telia
honum Tru um / ad kalla slikt aptur/
enn fæe hun þad ecke giørt med Goodu /
þa

þa mä hun þo hvorke brüka ill Ord/ edur neita hönum um ad giöra þad/ þviad eingenn Hlutur nema synd / sem Gude er a mööte / kann ad vera Riettkvoþa Orsök til þess / ad hun ei auðsyne Hlydne Husboonda synum.

## Truskapur.

9. J Annann Mata/ þa ä Konann ad vera Manne synum tru / og þad med Tvennu Mööte/ Fyrst hvad Hiona Saurg ennè vidkiemur / ad hun sie skyrlyf og fry fyrer allra annara Fadmlögum/ men þar fyrer ecke alleina bygia Syruck/ ef nockur villde tala til hennar þar um/ Helldur ad slä þvi fra sier med styggum Vidbiood / og alldrei giefa þeim Manne/ er Einusinne hafde freistad þess vid hana / hinu minnstu Orsök til ad giöra þad uppter. J Annann Mata ä hun og ad syna hönum Truskap i öllum Veralldlegum Syslunum er hann fær henne i Hendur. Hun skal haga þvi a þann Veg / ad þad meige sem hellst vera Boonda hennar til Gagns/ og ei med Svikum edur Under-

felle bruka hans Gots til þess er han ecke leift hefur.

# Elskan.

10. J þridia Maata byriar hene ad Elska han og umgangast med honum Goodlætlega og Vingiarnlega/ adstoda han og hiælpa so miked sem hene mogulegt er / ad hun kune ad svara til hinar hellstu Orsakar / hvar fyrer Konan var skopud / sem er ad vera Bonda synum Medhiælp / Gen. 2. v. 13. Og þad i Sierhvoriu Tilfelle / i Heilbrygde og Vankleika / i Rijkdoome og Fatækt / og lamtum vera i hvada Stand han af Guds Forsioon koma kyne/þa ſt at hun þioo nà honum og hiælpa hvar sem hun fær vidkomed. Hier a moot stryder oll þver ud og Vondska / Moglan og Orov/ þvi þad velldur þvi/ad Konan verdur Mañenum til Þyngsla og ad Plagu/i Stad ef þess hun ætte ad styrkia han/og Hug hreista/og i Sañleika/ef ad þad er Synd/ad vera Kyfsamur a moote nockrum

 Mañe/

Mañe / So sem alla Reidu er syndt: Hvorsu stoor Synd maa pad pa vera / ad reika hañ þañeñ til Reide/er þar eru um alla Ast og Elsku skylldugar?

## Mañsens Avirdingar meiga ecke hafa Konuna þessare Skylldu undañþegna.

11. Ei helldur meiga soddañ vond ar Konur þeinkia / ad nockur Yfersioon edur Bradræde/ sem kyñe ad fiñast hia Mañenum/kuñe ad vera þeirra Foolsku til Vmbootar / hvort helldur Madur Nugleider þetta epter Christeñdoomenum / edur og epter Skynsemeñe / Vor Truar Brøgd affsaka pad ecke/þvi þar sem ad Gud hefur Endelega skipad ad giøra Einhvørn Nlut / pa kañ eckert pad ad fiñast hia einum Mañe/hvørsu Lytelmootlegur sem hañ er / sem giete ordet til Forsvars ef pad er ecke giørt / og Skynsemeñ bydur pad ecke helldur / þviad þess verre sem Madureñ er / þess helldur ætte Kviñañ ad breita Vel og Vingiarnlega vid hañ / til þess ad hun

feinge hann unned. Þetta er þad Rad er St. Petur gaf Kvinnunum a sinum Dogum / 1. Pet. 3. v. 1. J sama Mata skulu og Kvinnurnar vera sinum Bændum undergiefnar uppa þad / ad ef þar eru Einhverier sem ecke trua Ordenu / ad þeir þa verde unner fyrer Kvinnunnar Umgeingne ann Ordsins. Þad syn est / ad ef ein Kvinna hegdade sier vel vid Mannenn / þa munde hun hafa kunnad ad snua honum fra Heidne til Christeli-doomsens / og i Sannleika / þad munde nu um Stunder ecke giora neitt Jllt / ef Konurnar hefdu alleina Þolenmæde til ad reyna þad. Ad minsta Koste munde þad giora mikenn Frid i Husenu / enn þvert a moote þar sem þar finnast vondar Konur / þa er Avoxturenn þar af so kunnugur / ad þar eru fæer Nabuar sem ei kunne ad vitna þar umm / edur ei vite hennar Foolsku. Hvad marger Menn eru þar / ad sokum þess / ad þeir ecke hafa giet-ad heyrt Osstopa vondrar Konu / þa hafa þeir sleiged sier til Selskapar og fall

ed sijdan i Dryckiuskap / og þar epter hafa ratad i Armood og margfallda Olucku. Þar fyrer mættu allar Konur taka sier vel Vara fyrer / ad ei verde þær sigradar af þessare Freistne / enn nær Eitthvad kann ad henda sig / sem hun fyrer þeirrar Elsku Saker/er hun byriar ad hafa a Manenum/ ætte ad aminna hann um / þa a þad ad framkoma med soddann Blijdlæte og Goodseme / ad þad sie audsært / ad þad sie Elska / og ecke Reide/sem kiemur henne til ad tala.

## Huusbondenn m og i sama Mata ad elska sijna Egta-Kvinnu.

12. Þar er og so a Huusbondans Sydu margfolld Skyllda. Fyrst Elskann/ Hvør St: Pall bijdur/ ad skule vera Medaumkunarsøm vid Konuna / so sem sier ma af þeim Dæmum / er hann brukar um þetta Efne/ Eph. 5. Eitt af þeim / er teked af þeirre Rætt / er Menn hafa a sijnu eigenn Lykama/ (Eing, enn seiger hn v. 29. hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad/ helldur Foostrar hann

þad og nærer. Nitt Añad Dæme er teked af þeirre Elsku/ er Christur hefur a sijñe Kyrkiu/ sem er miklu stærra. v. 25. Eñ bæde þesse setur hañ til Fyrermyndear/ hvørsu heitt ad Mañenum byrie ad elska Konu sijna. Oll Nardydge og Abuud vid þær er bañad/. Madur skal breita vid þær so sem eirn. Nluta af sialfum sier / Elska þær so sem siñ eigeñ Lijkama / og giora ecke, þad þær kuñe ad hafa Mein edur Angur af / eñ framar eñ þeir villdu skiera edur meida sitt eiged Hollo. Eg villde ad þeir Meñ sem eru Nardudnger vid Kvikur sijnar og valla breita vid þær eins og Mañeskiur/ Villdu hyxa sig um / hvørt þeir elska þær eins og siñ eigeñ Lykama.

## Truskapur.

13. Hin oñur Skyllda er, Madur, eñ ad veita Kvinu sijñe/ er ein Oflecked Hioona Saung/ þess krefur Gud eins vel af Mañenum so sem af Konuñe/ og þott Veralldeñ synest ad hallda þad miñe Synd /, ef eirn Madur bregde af

þvi/ þa mun Synden þo ecke synast minne fyrer Gude/ sem er hinn Riettlaate Doom are/ nær Skullden finst hiaa Mannenum/ helldur enn hiaa Konunne. Þad er vïst / ad bæde briooka þau þad Lofərd/ er þau giørdu hvørt ødru i þeirra Egtaskap / med soddann hætte/ fyrer utan þad / ad þau saurga sig bæde / þa verda þau sek i openberu Meinsære / og allur sa Mismunur er synest ad vera a þessu/ er meir þess vegna / ad Verøllden dæmer so þar umm/ helldur enn hins / ad Synden sie ecke eins i sialfu sier.

## Ad veita henne Upphellde og Forsioon.

14. Nin þridia Skyllda af Mannsins Alfu / er ad veita Kvinnunne Forsioon / honum byrtar ad meddeila henne þa utvortis Mune / sem Gud hefur blessad hann med/ z alldrei so kargur vera/ ad hann neite henne þess er hun vid þarf / ei helldur med Eidsluseme ad sooa so Fiarhlutum þeirra / ad hann ei hafe þad hann kunne ad forsorga hana med. Þetta er

ad

ad vissu Husbondans Skylldasepter þvi ad hønum byriar so sem allareidu sagt er / ad hallda Kvikuna so sem fyrer eirn Part af sijnum Lykama / og hafa eins mikla Vmhyggiu fyrer ad forsorga hana/ so sem sialf ad sig / samt a þetta þo ei so ad skiliast/ ad Kvinnan skule hier med vera frij fyrer Ydiu og Ervide/ þvi Skynsemenn kiener oss / ad þad Ortett sie/ ad Husbondenn skule vinna og ervida alleinasta til þess ad Konann kune ad vera Ydiulaus.

## Ad Vndervijsa hene.

15. J Fiorda Mata a Husbond enn ad uppfrada Konuna i øllu þvi er hennar Eilijfa Velferd ahrærer/ef hun kan þad ei sialf/ þetta kiener Paulus/ ad Konurnar skule læra af Mønnunum / 1. Cor. 14. v. 36. Hvar af sia maa/ad þeir eiga ad undervijsa þeim. J Sama lleika / þa atte hver eirn Husboonde ad bera Vmhyggiu fyrer/ad aller þeir sem honum eru Vndergiefner / yrdu i þessu ryægianlega uppfrædder/ og þo ad vij-

su eñ þa meir fyrer Konu sijñe/ sem honum er so myklu Nakomnare eñ hiner adrer / þetta alle ad þvijnga Meñena til ad vera Ahyggiusamer um̄ ad læra nockud sialfer/ so ad þeir duga mætte til ad fullgiora þessa Skylldu sem þeir eru ødrum skylldugir um̄/ og þo allra hellst Konuñe.

## Madur og Kona eiga ad bidia hvørt fyrer ødru / og hialpa hvørt ødru til i øllu Goodu.

16. J Sioῦasta Mata / þa eiga Madur og Kona / ad bidia hvørt fyrer ødru Jñbyrdis / ad Gud vilie bleßa þau bæde Andlega og Lyk amlega / og kosta Kapps um̄/ ad giora hvørt ødru allt til Gooda/ sem mogulegt er/ hellst i þvi er Saluñe vid kiemur/ ad eggia hvørt añad/ ad lifa so/ sein þeim byriar/ rada hvørt ødru fra Synduñe/ z so sem riettet Stallbrædur þeir ed draga eitt Ok / hialpa og adstoda hvørt añad i þvi ad giora Gott/ þetta er hin besta og riettasta Elska af øllum ødrum. Ja / eñ

framar/

framar/ Hvornest mä þad Elska kall-ast/ hvar ett Hioona läter añad fara afram̃ i einhvorre Synd / semvill abla þeim eitthvar Hyrerdæmingar / Og ef ad Elsku Makinn og Konu / være þañest bygd á Dygdenne og Gudhrædslunne/ munde þeirra Sambuud verda eitt Jardneskt Himnariike/ og munde afstyra allre þeir-re Sundrægne og Deyrd / er so almenn er á medal Hioona / hvad ad er eirn stoor Hußkross/ og hid mïña Helvijte/ sem er Vegur til hins stærra / og i Saaleika / hvar Elskañ hefur ei þeñañ Grund-voll/ þa er lijtilldrar Huggunar ad vænta i Hioonabandenu.

## J Hioonbandenu eiga Meñ all-tijd mest ad lijta epter Persoonustar Dygdum.

17. Þar fyrer / hvar eirn sem vill gefa sig i þetta Stand/ hañ skyllde vel huxa sig um̃ adur / og utvelia soddañ [illegible]a Persoonu/ vid hveria hañ kyñe od [illegible]lda þeña Andlega Vinskap / þad er soddañ Eina/ sem af Hiarta elskar Gud.

Þor er margur Orielkoß Tilgangur/er Men̄ hafa til þess ad giora sitt Hiona band/adrer gipta sig fyrer Rijkdoom/sum er fyrer Alit / og Almennelega lijta Men̄ til einkis/nema hins Veralldlega / en̄ i Sannleika / hvør sem ad villde gipta sig so sem hn̄ ætte/skyllde kosta Kapps um̄/ ad giora þann̄ sitt Hionaband ad Gude lijka kunne/og Sælu sinne til Velferdar ad verda / og ad minsta Koste ætte han̄ ad vera viss um̄/ad þad ei skyllde giora hon̄ um neina Hindrun i synum Sæluhialp°, ar Efnum/ og til þess gagnar Dygden̄ meir en̄ allur Veralldarennar Audur/þo neita eg ei þvi/ ad Madur meige og lij- ta epter honum.

## Olöglegur Egtaskapur.

18. En̄ fram̄ yfer alla Hlute/ þa vakte sig hvør Madur / ad þeir alldrei giore soddan̄ Egtaskap/sem ecke alleinasta verde þeim til Oluckuad Sydusst- unne/helldur er z Synd i sialfu sier/ nær hn̄ giordur verdur. Þann̄ er fra Hiona- naband/ sem ødrum hafa vered Trulof-

ader/ i hvoriu Tilfelle peir med riettu
heyra peim til/ er peir lofuduft/ og hitt
aütar/ sem ad tekur til Egta soddan Per
soonu / hast tekur aftars Mafts Mast
edur Konu á medan su Persona lifer /
hvad ad er riettur Doordomur / so sem
St. Paull seiger/ Rom. 7. v. 3. J sa-
ma Mata / er peirra Egtaskapur O-
loglegur/ sem eru hvert odru / allt of
nærskylld/ hveria forbodna Lide setur mar/
Levit. 18. og 20. Og hver sa ed gyptest
i pessa forbodnu Lide/ hvert helldur uppa
sijna Sgdu/edur sina Burldaudra Næ-
unga/ sem er eins illt/ hast dryger pessa
stooru Bloodskamar Synd / og so leinge
sem hast lifer i soddan Ologlegu Ytona
bande / pa lifer hast i pessare hrædelegu
Synd. Willde Madur nu taka sier
Vara fyrer pessu i Egtaskapnum / pa
munde Madur offsinna morgum peim
hryggelegu Tilfellum / er vier siaum
Daglega framkoma/ af soddan Brand-
giordum og Ologlegum Giptingum/ vær-
re par fyrer vel gett / ef Men villdu
lijta

lykla a Eglaskapeñ epter Christelegrar Kyrkiu Rade/ so sem eirn Hlut/er Madur ei skyllde uppbyria sannsjolega og hrapaxlega/alleinasta til ad fullnægia Holldsins Lyst og Syrndum/helldur med Virdingu/ med Viñpeinking/ Sparseme og i Guds Otta/og nær Madur pad giorer/ er eingeñ Efe a þvi / ad hañ Blessan hlytur / hvørs Madur kan þessa/ ei kañ med riettu ad vænta / og þetta er nu su Skyllda / sem Madur og Kona eiga ad taka Vara a syn a millum. Næst hier epter fylger su Skyllda/sem tilheyrer Vinskapinum.

## Um Vinattu.

19. Vinskapureñ/ef hañ er a riettum Grundvelle bryggdur / þa er hañ offtared Nafnomeñ og þarflegur/ eñ þar er eingeñ Hlutur sa / er Heimureñ villest meir i / eñ i þessu / Meñ hallda þa almeñelega fyrer Vine/ er þeir hafa jafnlega og ydduglega Vmgeingne vid / jafnvel þott ad þeise Truskapur i sialfu sier/ sie eckert añad / eñ ad þeir eru lyker

er og Samdauna i Syndeñe. Eirn Dryckiu Madur helldur þañ fyrer Vin/ sem vill giøra honum Selskap. Niñ Preklogse/ þañ sem vill skoda hañ i sijn um Hreckium. Niñ Dramþsame/ þañ er Nroosar og Nræsnar fyrer honum: Og so er þad Almeñelega i ødrum Løstum/ Ad þeir eru fyrer Vine halldner / sem fylgia oss i þeim/ Eñ Gud veit/ ad þetta er stærre þvi ad slijkt Vinskapur heita meige. Soddañ eirn Vinur er sialfur Diøfulleñ/ og þad i mesta maata/ hvørn alldrei vantar slijka Viliasenne. Niñ riettke Vinskapur er alldeilis Gagnsta dur þessu/ hvør ad er a millum þeirra sem eru lijker og samþycker i Dygdunum/ og ecke i Løstunum. I stuttu Maale ad seigia/ Eirn sa sem er riettur Vin ur/ hañ elskar siñ Vin þañeñ/ ad hañ er Ahyggiusamur um þa Hlute / er kuña ad vera honum til hins Besta / Og i Sañleika/ sa sem er riett þañeñ Lyndur/ hañ mun alldrei vilia vera sa / er fære hañ i hiñ stærsta Skada. Þar fyrer

a eins Vinar Skyllda Almeñelega ad vera su/ad Rækia i mesta Mæta Gagn sijns Vinar/hvort ad er/ i ødsk illañleg- um Plutum iñefaled.

## Truskapur.

20. So sem fyrst i Truskap i øllu þvi / er hañs Vinur truer hønum til / hvort helldur þad eru Peningar edur og Leindar-Mæl/ Sa ed pretkar siñ Vin i nockru af þessu/ þad er af øllum Møñ- um halldeñ ein Anstygd / þviad þad eru hin allra mestu Svik og Prettker/ og um̃ þvilijk Saar Hreckvijsenar / talar hiñ Vijse/ Syrach 22. v. 26. Ad þau burt- reke hvørn Vin.

## Um Adstod.

21. J Añañ Mæta a eirn Vinur ad hiælpa ødrum i øllū ukvortis Nauð- syntum / Rædleggia hønum / nær hañ þarf Ræds vid / hugga hañ i hañs Mootgænge / Hiælpa hønum i hañs Fætækt/ z med hiñe mestu Kostgiæfne/ ad frelsa hañ ur Hæska z Olucku/ Enn

Furdan,

Furdanlega mgiatt Dæme hofum vier hier uppa i Jonathans og Davids Vinattu / Hann elskade hann so sem sijna eigenn Saal / og vier siaum ad hann ecke alleina kostade Kapps um/ad frelsa hann ur Naiskanum/ helldur vogade sialf-um sier til ad hialpa honum / og took uppa sig sijns Fodurs Reide/til ad af-styra henne fra David/ So sem lesa ma 1. Sam. 20.

## Um Aminningar.

22. Hin þridia og stærsta Skyllda eins Vinar / er ad hialpa sijnum Vin og adstoda i þvi sem Saalena æhrærer / og med allre Kostgiæfne ad fa honum komed til ad elska Digdena og Guds Otta / med allre sinne Magt / Raade og Aminningum til Mannkostanna / Enn eggia hann alvarlega og Rokksamlega af Syndenne/ og þetta ecke einasta Almenne-lega/helldur og sier i Lage/med truurre og Vinsamlegre Aminningu æselia hann ef hann veit / edur af nockrum Rokum ma trua / ad hann hafe framed Einhveria

Synd.

Synd- þeßa utheimteſt ſier i Togt fram̃ yfer allt af einum Vin/ þar eing-en kan̄ betur ad giøra þad en̄ han̄. Þeir eru fleſter ſem ei villia giarnan̄ heyra ſijn ar Avitdingar / ſo ad ſa ſem vill Leid-rietta þa/ verdur fyrſt ad læta þa ætla Goods til ſijn/ ef þeir eiga ad hlijda hønum med Þoleñmæde en̄ þa framar / ſo Almeñelega er þetta hallded ad vera eitt Vina-Stycke/ ad ef hn̄ giører þad ecke/ velldur han̄ þvi / ad hin̄ Syndgar þeß Ohulltar/ og af þvi han̄ ſeiger hønum ecke ſijnar Avitdingar / meinar hin̄ / ad han̄ giøre eckert þad ſem Laſtlegt ſie/ og i þan̄ Mæta hræſnar fyrer hønum i Syndeñe meir en̄ hin̄ argaſte Smiad-rare/ Og nær Madur frgmveiges Nug-leider / hvørſu Naudſynlegt þad ſie/ ad verda ammiñtur æ Stundum / þa ſiaa Men̄ hvilijkt Kiærleiksleiſe þad ſie/ Jaa hvilijk Nardyðge og Vondſka ef Madur giører þad ecke. Vier ſiaaum i giegn-um Fijngur vid ſialfa oß / af Nattur-uñe i vorum eigen̄ Efnum / ſo ad vier ecke

ecke so fliooft, siaum vorar eigen Aᵉvirdingar. Giøreft þar fyrer stoor Þørf m/ad þær verde sagdar off Vdruᵉhoeriu / af þeim sem betur sia þær en vier/ og þe þetta giort i Fyrsluñe/ mun þad sporna vid þvi/ er vier sjdar kynum ad adhafast/hvar a meot/ef off þad allo rei sagt er / þa verdur þad ad soddañ Bana fyrer off / ad koom Ord munu sydañ lyted duga. Nyorneft kañ þa sa ad forsvara þad fyrer Gude edur sialf um sier / ad hañ vegna Þagmælsku siñᵉar/hefur fart siñ Vin i hina starstu Oᵉluckus þad er eitt Ordshættur er sialf ur Gud brukar / nær hañ talar um̄ eitt Vin/ Devt. 13. v. 6. þiñ Vinur sem er eins og þijn eigen Saal: Og i Saṁᵉleika. Vier æitum þess vegna ad hallᵉda Vine vora so sem vorar eigen Saalᵉer / og hafa hina somu Vm̄hyggiu og Vøktun a þeirra Saalum / so sem vier ættum ad hafa a vorre eigen. Þar fyrer ættu aller þeir / ed hafa bunded Vinattu vid nockurn med Riettu / ad

hafa þad ſier i Lage foolged i ſijnum Sakkmaala/ad ſtraffaſt og amiñaſt Jñ byrdes: Hvad ſijdañ ſkyllde halldaſt fyrer ſoddañ Vin-Sticke / ad ſa Eine kyñe þad alldrei ad misvyrda/ ei helldur ſkyllde hallda ad þad kiæme af þvi/ad hañ villde alltijd hafa Eitthvad ad ſeigia.

## Bæner.

23. J Fioorda Maaka/ maa Eg og miñaſt a Bænena / A medal þeſſa Vinſkaparens Parka / Vier eigum ecke alleina ad hiaalpa Vinum vorum / i øllu þvi er vier kuñum/ helldur og kalla hiñ Almaattuga til Hiaalpar / ad hañ vilie ſtyrkia þa/ og fela þa Gude Alvarlega a Hendur / ad hañ vilie leggia Bleſſan ſijna yfer þa/ bæde Tijmañlega og Eilijflega.

## Stødugleike.

24. J Sijdaſta Maaka ſkulum vier Støduger vera i Vinſkapnum / og ecke af nockurskonar Loſa-Skap / laata oſſ leidaſt vora Vine/ ſøkum þeſſ alleina / ad

ad hañ hefur lenge Vinur vor vered. Þad er eirn stoor Driettur a moote hon- um/ og hafe hañ skyckad sier vel/ þa ætt- um vier ad hafa þess meire Mætur a honum/ sem hañ lengur hefur þañeñ vered. Þar ad auke er þad næsta Fæ- vijselegt/ fyrer siælfa oss / þvi þad heiter ad burtkasta hiñe bestu Gerseme sem vier eigum / Þviad i Sañleika er þañ- eñ eirn Vinur / sem vier hofum reint. Nu Vijsaste allra Mañа amiñer oss / þar uñ. Prov: 27. v. 16. Þijnum eigeñ Vin og þijns Fodurs Vin skalltu ecke burt kasta ! Ja/ hvad meira er/ Madur a ecke sig ad skilia vid eirn Vin fyrer nockra litla Yfersioon/ og þurfer þu ad hallda honum nockud til Gooda i Dag/ þa kañtu ad giefa honum Orsøk til / ad giøra hid sama vid þig a Morgun. Þar fyrer a eckert ad kallast Løgleg Or- søk til ad slijta þetta Band/ nema Vnd- erferle og ein Synd sem hañ ecke vill aflæta.

## Þienararner skulu vera Hus-

bændum skiinum Hlydiger.

25. Hin Sijdarsta Skyllda er su/ sem er a millum Husbænda z Pienara/ sem hvørier eru ødrum um nockud skylld uger. Pienaren a ad hlyda sijnum Husboonda i øllu þvi sem hønum Løglega skipad verdur / hvørs Postulen berlega krefur/ Eph. 6. v. 6. Pier Pienarar/ vered hlydiger ydar Husbændum. Pesse Hlydne a ecke ad vera med Møglun og Moot-Vilia / helldur fus og af Hiarta/ so sem hann frammveiges Rædur til v. 7. Giøred ydar Piconustu med goodu Giede/ Hugleidande / ad petta er giørt DRottne og ecke Mønnum. Gud hefur bodeð Pienurunū / ad hlyda Husbændunum þannen/þar fyrer er su Hlydne vid Gud er þeir audsyna / hvad ed vel mætte hallda þeim til / ad giøra þad fuslega/hvørsu hardur og strangur sem ad Husboondenn er / Sierdeilis ef Madur Ihugar pad/sem Postulenn frammveiges slendur uppa / v. 8. Ad þeir hafe þar fyrer ad vænta Launa hia Gude:

Truskap-

# Trwskapur.

26. Nin Onnur Pienarans Skyll-da er Trygdeñ / og er hun med Tvefiu, moote. Ein er a moote Augna-Pion-ustu/og Onnur a moote Svikum og Af-drætte. Nin Fyrste Partur af Tru-skapnum er, þar i foolgeñ / ad hañ sie Trur sijnum Husbonda i allre sinne Pion ustu/ Ecke einasta þegar hañ sier til/ og hañ veit ad hañ mune straff adur verda ef hañ forsoomar / helldur og alltijd/ og eñ þa nær Husboondeñ/ ecke so kyñe ad sa/ad vita hañs Aðgtdingar/og sa Pie-nare er ei giører sier Samvitsku hier af/ kañ eingañveigeñ trryggur Pienare ad heita/epter þvi ad þesse Augna-Pioon-usta verdur af Postulanum sett / þvert a moote þeirre Hiartans Einlægne sem hañ heimter af Einum Pienara/ Eph. 6. v. 5. Nin Añarslags Truskapur er þar i foolgeñ/ ad hañ fare Rædvand-lega med allt þad/ sem hañs Husbæonde hefur truad honum fyrer. Ecke ad eida hañs Gotse/ fyrer þvert hia Ræng

læte Raadsmadur var klagadur/ Luc. 16. Hverke med Hyrduleise / edur ad bruka þ sier til Abata/ ann Husbondans Bilia. Pad Sydara er sa Afdrattur er Postulens ammiñer Þienara um/ Tit. 2. v. 10. Og er i Saūleika ecke añad eñ Openber Þioofnadur. Nyngad vita aller þeir Beiger/og Atburder/er Þienareñ brukar til ad audga siælfañ sig / Husboondanum til Baga og Skada/ so sem ad taka Muutu til ad giora Dæmlegañ Kaupskap hañs vegna / og margt añad þvilykt. Ja i Sañleika / þesse Otrygd er verre eñ Almeñelegur Þioofnadur/ Og þess meir sem honum er truad þ / Þess stærre er þesse Pretvysseñar Synd / Og hvad vidvijkur hiñe Añarslags Otrygdeñe / sem er ad Eyda og Spefña til Onyttis / Jafnvel þott þeir viñe eckert þar med / þa er þo ecke stoor Mismunur a millum þessa hvorutvegg ia. Husbondeñ kañ ad missa eins mikid fyrer þad Eina so sem fyrer hitt Añad / og hvad gillder hañ þa um / hvort

þad

þad verdur fyrer Forsoomun hañs Þien
ara/ edur fyrer hañs Agyrnes Skulld/
og heiter þad eins ad bregda Tru syna/
so sem hid Fyrra. Þvi eg vil nu læta
so vera / ad eirn Husboonde true einum
Þienara fyrer synum Fiarhlutum/ eins
vel til þess ad bera Umhyggiu fyrer þm/
so sem i þvi ad syna sier Trustap / þa
hefur Husboondeñ lited Gagn þar af/
þott hañ sie viss um ad Þienareñ ecke
svyke hañ sialfur/ef hañ giefur þo od,
rum Nentugleika til ad giøra þad/Sek-
um syns Hyrduleises. Þar fyrer/ hv,
er sem ecke ber Umhyggiu fyrer Gagne
Husboonda syns/hañ brytur eins vel sy-
na Trigd og Trustap/so sem hiñ er med
Rangsleitne dregur hñs Gols under sig.

# Um Mootmæle.

27. Nin þridia Skollda eins Þie-
nara er/ad hañ sie Poleñmoodur/og med
Hæglæte take a mooke Straffan syns
Husboonda/ og sie ecke Svørull/ so sem
Postuleñ Kiædur / Tit. 2. v. 9. Þad er
ad svara honum ecke med Ofægum edur

Weiskum Ordum/ til þess ad Husbeend-
eñ verde þess gramare/ hvad so Almeñt
er hiaa Þioonustu Foolke/ Jafnvel þott
ad Husbændurner hafe fulla Orsøk ad
tala til þeirra. Hvar a moot St. Pe
tur bijdur þeim/ ad þeir eñ þa skule med
Þolenmæde umbera þa Strøffun/ er
þeir allra minst hafa forþient/ og jafn-
vel nær þeir vel giora/ ad lijda þo Jllt
þar fyrer/ 1. Pet. 2. v. 20. Eñ þad
er eñ þa ecke þat med bued/ ad hañ lijde
med Þolenmæde þa Oþock/ er hañ vañ
ecke til: Hañ a þar jafnframt med ad
Lagfæra þa Yfersioon er honum var
brugded um/ og ecke ætla ad hañ hafe
giort alla Hlute vel/ nær hañ hefur hey
ert Ord sijns Husboonda/ eñ þa med myk-
elle Þolenmæde.

## Kostgiæfne.

28. Hid Fioorda / i hvøriu eiñ
Þienare a ad giæta Skylldu siñar/ er /
Astundañeñ. Hañ a ad vera Ydeñ i
øllu þvi sem honum er a Hendur faled/
ecke ad gioraſt latur edur Ydilaus /

Ecke vera giefen fyrer Selskap / Leik edur odru sem ecke samer/ hvar med hńs Husbonda Verk kynne ad forsoomast. Allt þetta er Skyllda eins Þienara/sem hań hiýtur ad giora og ad bera Umhyggiu fyrer / og fullgiora epter Samviskuń sinne / ecke so til þess ad umsliia Husbondans Reide / so sem Guds / sem ań Ek fa vill siefna sierhverium af þm̄ til Reikningsskapar/hvornen þeir hafe hegdad sier vid sijna Lanar-Drottna.

## Husbændur eiga ad giora Þienurum sijnum riett.

29. Nu a hina Sijduna er þad og nockud sem Husbændur eru skylduger sijnum Þienurum um̄/ so sem i fyrstu/ad þeir eru skylduger til ad gialda þeim allt þad er þeir lofudu þeim / breita vid þa epter þvi sem þeir hietu þeim / nar þeir riedu þa sier til Þienustu. Hvad Almeńelega er vant ad vera Fæde z Kaup-Gialld / og sa Husbonde sem skorar sig undań þvi / hań er ad vissu eirn Ofriŋk-id Madur.

# Aminingar.

30. J Anñañ Maka a Husboondeñ ad aminña siñ Þienara um̃ hañs Avyrdingar / og það ecke alleinasta nær hañ brijtur eitthvað a moote hønum / hvørju fæer Husbændur gleima / helldur og fleiru oðru / sierdeilis nær þeir syndga a moote Gude : Hvað eirn Husbonde ætte að læta sier miklu meir til Hiarta gæanga / helldur eñ það sem hñs eigeñ Skaða ahrærer. Það er miklu meire Orsøk til að gremiast af þvi / að Guð Dyyrdtur verde / z hins Lijtelmooklegasta Þienara Saal / kome i nockurn Hæska / helldur eñ af oðru oðru. Þar fyrer nær Husbondeñ verdur strax reidur af hiñe miñstu Yfersioon edur Forsoomun sm̃ Þienarañ kañ að henda a moote hønum / og hyrder þo eckert um̃ añað / og gyllder einu þott þeir æfe sig i hiñu verstu Syndum a moote Gude / þa er það Merke til þess / að þeir hyrda mest um̃ sitt eiged Gagn / eñ lijted um̃ Guds Æru og Saaluhiælp Þienara sijña. So eru Hus

bændur

bændur Almeñelega lynder / þeir hyrda alldrei um̃ hvorneñ þeirra Hiooniſtu Foolk hagar ſier vid Gud/ Hvørſu O-ſkyckanlega og Ogudlega tilgeingur i þeirra Huſe/z þeſſ vegna alldrei am̃iña þa i minſta mæta um̃ þeirra Synder / til ad telia þeim Tru um̃ ad æfa þad ſm̃ gott er/ edur hamla þeim ad ſyndga. Soddañ Husbændur gleima þvi/ad þeir eiga einhvørn Tijma Reikningsſkap af ad giera fyrer þvilijka Huſtioorn er þeir hafa hallded. J Sañleika / hvar ſem ad hefur nockur Maña Rad / hañ a ad hafa Koſtgiæfelega Tilſioon ad Dygd og Gudrækne ebleſt hia ollum þm̃ ſem hañ hefur yfer ad ſeigia / Og þad eins vel i hvøriu Huſe/ ſo ſem i hvøriu Lande og Ryke. Hier um̃ var David ſo miøg hugad / ad Meñ ſia ad hañ med-kieñer Pſalm; 101. v. 7. Ad eingeñ Prettvijs ſkule vera i ſijnu Huſe/ og ſa ſem Lyge talar/ ſkule ecke lijdaſt fyrer ſijn um Augum. So miøg þyckeſt hañ vera ſkylldugur til ad taka Vara a þeſſu / ſo ad

ad hañs Hus kynne ad vera so sem nockur skonar lijtel Kyrkia / Gudhræddra og Nædvandra Maña Samkunda / Og ef hver eirn Husboonde villde stunda epter ad lata Husenu vera so hattad / þa mun̄ de hañ fyrer utañ Eilijfa Blessan i ødrum Heime / fiña sier stoort Gagn hier af i þessum. Hañs Verallðlegar Vtrettingar mundu myklu betur luckast / Þvi ef hañs Þienurum være halldeð til ad giøra sier nockra Samvitsku um̄ sitt Lyfferne / mundu þeir hvorke verda mieg forsoomunarsamer / ecke helldur Otruer.

## Alla Hlute a fyrst ad Reyna med Goodu.

31. Eñ so sem þad er Husboondans Skyllda ad amiña Þienara siña / So a þad og ad ske i Tilheyrelegañ Mata: Þad er med soddañ Hætte / ad þad kuñe sem mest ad gagna / ecke af Reide edur Brædrade / hvad alldrei añad verkar hia Þienurunum eñ Oynde og Dvyrding / helldur med hæglatum og alvarlegum Ordum / so ad hañ kuñe ad

pectia

þeckia sijna Avgtdingu/og sie viss um/ad
pad alleina giørt sie til ad Leidrietta
hañ/eñ ecke af þvi/ad Meñ hafe Gam̃
an af/ad deila vid hañ/ edur svala Giede
sijnu.

## Madur skal gaunga undan þeim med goodu Eptterdæme.

32. Nid Þridia sem Einn Hus-
boonde er skylldugur ad giøra/er/ad gan̄
ga undañ Þienurum sijnum i goodum
Dæmum / i Gudræk̃ne og Rädvendne /
vn̄ hvers ad allt pad hañ med Amiñin-
gu og Advørun giørä kañ / mun ecke
verkä / edur og hañ nidur bryttur meira
med sijnu Eptterdæme / helldur eñ hañ
kañ ad uppbyggia med hinu / og pad er
Dærlegt/ ad einn Drÿckiugiarn og O-
gudlegur Husbonde skylldе ætla sier O-
druckens og Gudhrædds Þienara.

## Madur ä ad sïä til / ad þeir verde i Guds Otta uppfræddir.

33. J Fiorda Mäta byriar ein-
um Husbonda ad sia til/ ad hañs Þien-
arar

arar verde uppfrædder i Christelegum Truarbrøgdum / ad þeir og Daglega lǽte sijna Þienara hallda Gude Lof-Saung i Husenu/ Enn um þetta hef eg ǽdur talad i þeim Capitula umm Bænena / Vil þvi ei tala framar hier um i þessum Stad.

34. J Fimta Måta ǽ eirn Husbonde ei ad vera allt Ofharður i þvi / er hann skipar / edur leggia meire Byrde a Þienarann/helldur enn hann kann under ad rysa/ Sierdeilis ecke ad heimta so mik-ed Verk af þeim/ad þeir hafe aungvann Tijma Umhlaups til ad rækia Sálar-Gagn sitt/so sem hann þar þvert a moo-te ecke helldur ǽ ad leifa þeim Ydin-lausum ad vera/ so ad þeir hvørke verde hønum til Gagns / og falle þo siálfer i eina edur adra Synd.

## Ad upporva þa/nær þeir skycka sier vel.

35. J Siøtta Måta ǽ einn Husbonde ad upporva sijna Þienara/ nær þeir skycka sier vel / Breita vel og Vin-

samlega

samlega vid þa/ epter þvi sem þeir med Truskap / Astundan og Gudrækne til vita. Og ad Sijdustu á eirn Husbonde i øllum Hlutum ad Hugleida / ad þar er eirn DRottens i Himnenum/ so sem Post ulenn seiger/ Eph: 6. v. 9. Fyrer hvørium hann á Reikningsskap ad giøra / hvørnen hann breitt hefur vid hinn allra minsta Þienara sinn a Jørdunne. Og hef eg nu so i stuttu Maale framtaled hinar sierlegustu Skylldur / af hvørium hvør ein med vissu Moote Skulldbindur sig/ og þar ad auke talad nockud umm hina Fyrstu Grein af Skylldu vorre vid vorn Naunga/ sem er Riettvijsenn.



## XVI. Capitule.

# A HeimSextan

DAGSNNBDEJGG.

Hinar adrar Greiner af Skylldu vorre vid vorn Naunga

unga um Kiærleikan / so miked sem Smlune vidkiemur / og hø ad vier erum þeirra Lykama um skyllduger / Um Formegan og Manord.

## Kiærleike.

1. Nin Odur Grein af vorre Skyll du vid vorn Naunga / er Kiærleikurenn. Þetta er su stoora Skyllda er Christur so tyt bijdur oss i Evangelio: Nitt Nya Boodord / so sem han̄ sialfur kvedur ad / Joh. 13. v. 14. Ad þier Elsked hvør Anan / og þad er aptur Itrekad Tvisvar sinum i þeim 15. Cap. v. 12. og 17. Og St. Johañes hefur brukad mest allan sin Fyrsta Pistel til ad telia oss Tru um̄ þessa Skylldu / hvar af vier kuñum ad sia / ad þetta ecke er ein̄ Hlutur / sem ecke miked um̄varde hvort giordur sie edur ei / Helldur þad sem Endelega utheimtest af ollum er vilia laata sig Christna hall da. J Saññleika / han̄ hefur sialfur sett

þekka so sem eitt Kiene-Teikn uppa sina Læresveina/ Joh. 11. Þar af skulu aller Menn þeckia ydur / ad þier sieud mijner Læresveinar / ad þier Elsked Jnnbyrdes.

## J Jñvortis Tilhneigingune.

2. Þesse Kiærleike verkur med Tve hu Moote Hugleiddar / Fyrst / hvad vidviikur vorri Hiartalagie ; Og i ødru Lage vorum Verkum. Jñvortis Kiærleiken er Ein Falslaus Gied. Giafka / hvar ed þvingar off til ad vilia ødrum vel / og þad i øllum Hlutum / med sama Hætte so sem Rietklæked Skulldbindur off til ad vilia eingum illa/ hvorke i þvi sem Sælunñe nie Lijkama / Nauungans Golee nie Mañorde Vidkiemur. Med soddañ Hætte Skulldbindur þesse Fyrsta Grein af Kiærleikanum off til ad vilia honum vel i øllum þessum Þørtum.

## Hvad Sælunñe vidviikur.

3. Fyrst / hvad Sælena áhrærer. Ef vier hofum hiñ allra minsta Kiær-

leiks Reisla/ þa kussum vier ei aňars eň
bidia goods Sælum þeirra/ so sem þær
eru sa Hlutur / sem Christur hiellt so
mikels verdar / ad haň Endurleysse þær
med sijnu eigeň Bloode/ Og þess vegna
maa haň vel eigna sier vorn Kiærleika og
goodar Offer / Ja / ef vier ei þaňeň
elskum hvør aňaň/ þa er langt fra þvi/
ad vier hlijdum þvi Bodorde / ad elska
hvør aňaň so sem haň hefur oss elskad/
Þvi þad var Maňesskiuňar Saal sem hň
so heitt elskade / ad haň doo og leid so
miked fyrer heňar Skulld. Þesse haňs
Kiærleike vid Sæler Maňaňa/ afrekar
Tvo Hlute/ Fyrst/ad haň hreinsar þær
med Raad siňe/ þad Aňad/ ad hň giør,
er þær Eilijflega Hoolpnar i siňe Dyrd.
Og epter hrørulveggiu þessu/eigum vier
ad so miklu Leike ad kreppast i vorum
Kiærleika/ad vier Jňelega Oskum Maň
esskiuňe/ ad hun i þessu Lijfe kuňe ad naa
þeim Hreinleika og Heilagleika/ ad hun
mætte Verdug verda til ad niota hiň,
ar Eilijfu Saaluhiælpar i hinu. Þess

være vænkande/ ad eingen sá sem ber eina Sælu um̄ kryng i sijnum Lijkama/ mune vera so Hardudugur edur vondur / ad moote annars Sæl / ad hann skylldе ecke þess Oska af Hiarta/ nema ad Reinslan synde oss / ad þar eru þeir til / hvørra Bondska er so Dioflenum lijk / ad hun nær til þess / sem þar stryder þvert a moot / Og Oska ecke alleina ødrum / ad þeir Syndge / helldur og ad þeir Eilijflega Fordæmder verde. So Lynda sinna Mesn suma / sem ad hugga sig þar vid/ hvørsu miked Ofryke og Orietta ad þeir lijda hier / ad þeirra Ovinеr mune abla sier Fordæmingar þar med / þar þetta ælle þo ad vera hrædelegra fyrer eim̄ Christem / en̄ hvert an̄ad Mein / er han̄ kynne ad giora sijnum Nauunga. Sierhver Ein̄ sem þan̄in̄ er Lyndur/ er Andskotans Læresvein̄ og ecke Christi / Søkum þess/ad þad er þvert a mote þvi sem hid stoora Christi Bodord skipar / ad Elska vorn Nauunga sem sialfa oss/ þvi eingen̄ sa sem ad truer / ad þar sie
 nockur

nockur Fyrerdæming til/ Off ar sialfum sier þeiſ / Jafnvel þott hañ gange a þeim Veige/er þangad liggur. Samt vill hañ ecke ad ſyn Reiſa ſkule lenda þar/ Og þar fyrer ætte hañ epter Þeſſare Kiærleiks Reglu eins hræddur ad vera fyrer ſijns Naunga Fordæmingu.

# Vier eigum ad vilia øllum vel/ þad æhrærer þeirra Lijkame/Gots edur Mañord.

4. J Añañ Maata eigum vier ad bidia øllum Goods/hvad Lijkømum þeir ta vidvijkur / allrar Heilbrigde og Velgeingne : Vier ſiaum ſo giarnaſt Aum ur æ ſialfum oſſ / ad vier Ottunſt fyrer hinnm minſta Verk edur Særendum/ et o i kynſe til ad falla/eñ Kiærleikeñ epter þvi Bodorde ſem ædur er uñ talad/ ſkylldar oſſ til ad hafa eins vel Medaumkan med vorum Naunga / ſo ſem med ſialfum oſſ. Og hvad ſem helſt ad vier kieñum ſialfer til/ſkylldum vier et giarnaſt vilia ad ødrum ſkyllde tilfalla. Nid ſama kynſe ad feigiaſt uñ hvna

hina adra Tvo Posta / Gots og Mann-ord/ ad so sem vier giarnast meigum sialfer vora eigest Velgeingne og Virdingu/ so attum vier og ad bidia þess odrum/ as-ars kunnum vier ecke ad elska vorn Naunga sem sialfa oss.

## Hvad þesse Innvortis Kiærleike verke.

5. Sie þesse Innvortis Kiærleike Falslaus / þa mun þad kinnast / ad hann verkar adskilianlega Hlute / hvoria so langt er ad skilia vid hann/ ad þeir verda optlega i Reikningunne / talder fyrer einn Part af sonnu Skylldu / og þar fyrer heimtast þeir. Endelega af oss/ Fyrst eigum vier ad vera Spaker og Fridsamer i Giedenu vid adra/ og ad þad ad vera so langt fra/ad vier stundum epter Kiæru Malum vid adra / ad eingest Hlutur ma ad giefa komed oss þar til / þvi ef vier giet um lated oss lynda vid Einhvorn / þa skulum vier ecke giarnast della vid hann/epter þvi þad er eirn af hinum sier-legustu Hattum Kiærleikans ad Reidast

ecke/ 1. Cor. 13. v. 5. Þar fyrer/ hvør sa / sem ad er Þræatkunarsamur / hann synér ad þar sie einginn Kiærleike i hanns Hiarta. I Annann Mata/skulum vier Medaumkun hafa yfer annara Eymdum / nær Einhver Olucka hender þa / sem vier Oskum ad vel mætte gannga / verdum Hryggver og Sorgfuller / þar fyrer ef vier vilium ollum vel/skulum vier i sama Mata læra oss alla Oluckn til Hiarta gannga / og verda Hryggver og Sorgfuller / af þvi ad sia þeirra Eymd/og þad epter þvi sem ad Mootgangurenn er stoor til: I Þridia Mata ablar þetta oss Glede/nær odrum vel vegnar / þad hefur Salomon athugad / Proverb. 13. v. 19. Nær þad kiemur er Madur Oskar epter/þa verdur Hiart ad katt / og sa sem af Hiarta lanngar epter Velferd syns Naunga/hann hlytur Osk sijna / nær honum geingur vel / og kann þvi ei annars/enn ad fagna og glediast þar af / umm hvortveggia þetta hofum vier under eins feinged Bodord af St.

Pale/

Pále / Rom. 12. v. 15. Fagned med Fagnendum / og græted med Grætendum. J Fioorda Maata uppvekur pad off til/ ad bidia fyrer odrum/ Vier erum af siælfum off til veikar og breiskar Manneskiur / Ohæfer til ad meddeila nockrum Blessan/ helldur verdum vier ad Oska peim hennar. Ef vier pvi viljum odrum af Hiarta vel / pa meigum vier Endelega sækia pad til hans / fra hverium ad kiemur oll good Giof og oll fullkomen Giof / Jacob. 1. v. 17. A pessu rijdur so miked i Kiærleikanum / ad ef pad vantar / pa er vor Goodseme eckert anad enn so sem nockurskonar toom Complement. Pvi hvornenn man Mad ur trua/ ad sa vilie odrum vel af Hiarta/ er ei giorer Offer sijnar ad Bænum/ hvoriar pan pessa eru forgiefens og Avaxtarlausar. Postulenn helldur pad ei Rædlegt / ad Foolk nægiest med Emtomis Offer/ helldur rædur peim til/ ad giora audmiukar Bæner / Fyrerbeidslur og Packargiorder fyrer ollum Monnum/

1. Tim. 2. v. 1. Hvortu Boodorde ad giarnast verdur eptersfylgt af þeim sem hafa ƥnan Kiærleika af Hiarta. Þesser adskilianleger Postar / eru so eigenlegur Avoxtur þessa Kiærleika / ad su Manne eskia dregur siälfa sig a Tolar / sem hyggur / ad hun mune elska sin Naunga so sem tilheyrelegt er / nema han hafe þessa Averte til Kienne-Teikns þar um.

Hvar sem ad þesse Kiærleike finst / þar er eingen Ofund.

6. En þesse Dygd stijgur eh þa hærra / hun ablar Rooleegs Sinis / og giorer oss Ohulla fyrer stortum og Næs-kasamlegum Slagmum / so sem e fyrstu fyrer Ofund / hvad Postulen kiener oss ad sie eitt Nattur Kiærleikans / 1. Cor. 13. v. 4. Kiærleikuren er ecke Ofund-sinkur / og i Sannleika / þa kan vor Skyn-seme ad syna oss þad / þvi Ofundeñ er i þvi innefalen / ad hryggiast af þvi ad ödrum geingur vel / þar fyrer maa þad vera þvert a moote þvi / ad bidia ödrum Goods / hvad eg fyrer skommu synde ad væ-

te Avoxtur Kiærleikans/ so ad hvar sem ad Kiærleikuren drottnar/ i Hiartanu / þa rekur hann ad vysu Ofundena ut. Hversu Oriettvyslega tileigna þeir sier þa þessa Dygd / sem ad jafnan kvarta og mogla um þad sem adrer gott hliota.

## Ei helldur Drambseme.

7. J Annan Máta hindrar hun Dramblæte og Hofmood / þetta kiener Postulenn oss i sama Máta i ádurgreindum Texta/ Kiærleikuren giorer ei Jllmannlega/ Er ecke uppblaasenn/ og so kiennum vier/ ad hvar sem ad þesse Dygd Kiærleikurenn er bodenn/ þar filger Lytelæted og Hoogværden med/ so er þad Coloss. 3. v. 12. Jklædest Hiartgroonne Myskunseme/ Goodgyrne/ Lytelæte/ Þolenmæden / og Rom. 12. v. 10. Vered astudleger i Broodurlegum Kiærleika / hafande hver annann sier i Virdingum adre / Hvar vier sioum ad Lytelæted er dyggdugur Kiærleikans Folgiare / þad sprettur af honum / af sialfu sier/ þvi Kiærleikuren ber Virdingu fyrer þeim/

er hañ elskar/og metur og agtar hñ mikels/ þañeñ skiñum vier þad allt of opt ad vera af sialfs Elskuñe / hver ad þvi velldur / ad vier høfum allt of-stoora Þanka um sialfa oss / ad vier stieum Ypparlegre eñ adrer / og ef nu ad Elskañ sem vier høfum a sialfum oss/ Fæder þañeñ af sier Drambsemena/þa laat um oss veita þessum Laak a adra Sijdu / og elskum vora Brædur / og mun þad so vijst gieta af sier Lijtelæted/þvi þa munum vier siaa og vyrda allt þad gott og ægiætt sem hiaa þeim kañ ad fiñast/hvad vier ei siaa villum/helldur foragtum vegna Naturs og Drambseme / og þa munum vier ælykta/ad þad sie næsta Orietti vijst/ añadhvort ad foragta þa hiaa oss/ edur stæra sig yfer þeim. Vier mundum ad vissu fiña / ad vier hefdum Orsøk til ad lyta epter Amiñingu Postulans/ Philipp. 2. v. 4. Ad vyrda adra meir/ helldur eñ sialfa oss / Hvar fyrer/ sa sem er so Drambsamur / ad hañ Ovyrder og forsmaaer adra / hañ maa ælykta

lokka um sialfañ sig / ad ecke sie Kiær, leikureñ Rootfestur i hañs Hiarta.

## Hañ hindrar Hleipe Dooma.

8. J Pridia Maata hindrar hañ oss / ad vier ecke allt of Brædlega fellum Doom yfer vorn Nµunga. Kiær, leikureñ hugar ecke Jllt / so sem Postulen seiger / 1. Cor. 13. v. 5. Honum er ei forullt ad hafa rangar Meiningar uñ adra / helldur hvert þar a moote / so sem ad epterfylger i hinu 7da Verse / þo truer hañ ollu / vonar allt / þad er / hañ er buen ad trua og vænta hins besta af ollum: Og i Sañleika þa kiener oss þad vor eigen Reinsla / þvi hvar sem vier elskum / þar þeckium vier ecke Avyrdingar / hvorsu stoorar sem þær eru ( Hin stoora Blindne er oss filger i vorum eigeñ Avyrdingum / kañ ad vitna þad med oss / þar fyrer i Sañleika / ef vier hofum Kiærleikañ / þa munum vær alldrei smyda þær Avyrdingar sem þær ecke eru / ei helldur giora þær stærre eñ þær eru / z giora þañeñ Myflugana so stoo-

ra sem eitt Fyl / Og i hvoriu Golde skulü vier þa hallda hiaa hördu Meiningar og fliota Dooma / er vier sellum yfer alla / hvad so Almenn er Mosa a medal/ Sañlega alldrei aflatz vegna/ ef þad / oss vantar Kiærleikañ ?

## J sama Mata Flaræde og Hræsne.

9. J Fiorda Mata burtrekur hañ alla Hræsnisfulla Goodseme / Hvar sem ad er þesse sañe og einlæge Kiærleike / þadañ burtu skyr hiñ Falske og Flaræde / og sydañ Kiærleika er oss skipad ad hafa / sem ad sie uañ Falsk-var J Sañleika / hvar sem hañ er Rootfestur i Hræsnaun/ þar kañ alldrei Flattskapur ad byggia / þviad hañ er allt þad sem Hræsnareñ vill synast ad vera/ og geingur þess vegna so laangt yfer hañ/ so sem ad Natturañ yfergeingur Kuustena / Ja ad vyssu / so laangt so sem ein Gudrækna Dygd / yfergeingur eiñ skamarlegañ Glap / þviad þañiñ er Goodseme hiña Flaræda / og þo er ad

Qitast

Oftast fyrer / ad hun Almenelega sitie i
þvi Sæte/hvar hin sanne Kiærleike ætte
ad sitia. Nefnär Avexter eru allt of
miøg Smeleger/ a medal vor/þat ecke
er Almenara en ad Men heita Lenn
Vinattu sine og syna häno ä sier / er
Men þo hafa ad Athugatre / og giora
margøgelegt Mein strax sem þeir hafa
snued Bakenu vid.

## Eigen Gagn og Abata.

10. J Fimta Mata lydur han ein-
ga Sierplæaue edur ä tegþyrne hiän sier/
sem er Giedsraken og Hugprudur/ Han
hyder ecke um ad standa of miøg uppa
sin eigen Abata og Gagnseme/ hvar fyr
er ad su Kvikindis Elska sem miøg so
sydkast i Heimenum / og alleinasta er a
þeim/ sem Men vænta sier einhvørs
Velgiørnings af / hun ma ecke hid mins-
ta stillt vid þena Kiærleika.

## Heiptrækre.

11. J Siøtta Mata mä oll
Illgyrne og Heiptrækne utrekast ur
Hiarta

